# SJÞ
# Gudrækelegar
# Umþenk-
# ingar,
Edur
# Eintal Christens Mañs
vid sialfañ sig, hvern Dag i Vik-
uñi, ad Kvølldt og Morgne.
Samañtekuar af þeim Heidurlega og Hatt-
upplijsta Kieñemañe,
# Saal. Sr. Hallgrijme
## Peturs Syne,
Sooknar-Preste ad Saurbæ a Hvalfiardar
Strønd.
Editio V.

Seliasi Almennt Innbundnar 5. Fiskum.

Pryktar a Hoolum i Hialltadal, Af
Jooni Olafs Syne, Año 1773.

Esa. 65.

Pad skal skie, adur eñ þeir kalla, þa vil eg Andsvara þeim, og a medañ þeir eru eñ nu ad Andvarpa, þa vil eg Bænheyra þa, seigir DROTTENN.

Matth. 6.

Nær þu biðst fyrir, þa gack iñ i þitt Svefn-Hws, og lyk Dyrunum aptur, og bid þu Fødur þiñ i Leynum, og Fader þiñ sa i Leynum sier, mun þier þad Opiñberlega Endurgiallda.



# Morgun Panki a Suñudagiñ

Hia Marcum i 16. Capit. verdur lesid, Ad Herrann vor JEsus hafi fraa Daudum upprisid miøg sneṁa Morguns a þeim fyrsta Degi Vikuñar, sem ad nu er vor Suñudagur.

MED þvi nu mijn Saal, ad DRottinn hefur geymt þig undir siñi Myskunar Hendi, a þessari um̃lidinni Noottu, fraa Otelianlego morgum Diofulsins Svikum, og Myrkraña Skelfingum, svo þu rijs nu Heilbrygd upp wr þiñi Hvijlu. Þa siaa nu til, ad þu honum til Þackniunar, sem þig verndad hefur, og þier til Leidriettingar Hugleidir nockud lijtid

um̃ þetta Efni, nu a þessari Morgun Vöku Stund.

Og fyrst lattu þier til Hugar koma, ad, sijka sem þinn Endurlausnari, doo fyrir Syndir þijnar a Krossinum, og forlijkadi þig vid þann Almattuga Gud, med þeirri allra Heilogustu Fooryn sijns Blessada og Syndlausa Lijkama: Svo riettlætti hann þig fyrir Gudi einnin̄, med sinni Dijrdarlegri Upprisu. Han̄ afklæddi þig Flijkum þin̄a Synda, i sijnum Dauda, enn iklæddi þig aptur lioomandi Skrwda siins Riettlætis i sin̄i Upprisu. Hiartans Gledi attu og mattu hier af hafa, mijn Sal, og af ollum Hug og Hiarta attu honum Þackir ad giora, fyrir soddann hæleitan̄ og Himneskann Velgiorning; Og so þu audsynir þad nu i Dag, i þijnu Fram̃ferdi, ad þier finnist nockud til soddann Giædsku og Goodvilia þijns Endurlausnara, og þu vilier giarnann bera þig ad, ad syna honum Hlijdni aptur a mooti, þa lattu þetta hid sama Giædskuverkid hanns vera þier svo sem

ellnaReglu og Minnis Sedil, allann þeñañ eptirkomandi Dag, i þvi sem þu formætt ad giøra, hugsa og tala.

Hugsa þu nu þar uñ fyrst; Ad liika so sem JEsus þinn Lausnari doo þinna vegna fyrir þijnar Syndir, svo þær skylldu ecki orka, ad þu dæir eilijfum Dauda, so kepp-stu nu vid i Dag, ad deya sialfur fra Syndunum og øllu illu Athæfi, fyrir eina hreina og Hræsnislausa Ydran og Yfirboot.

Þar nærst, svo sem þinn Lausnari reis upp af Dauda, þier til Riettlætis, so siaır til ad þu i sañri Trw, kappkostir ad bætra þitt Liferni, og gaanga i Endurnyungu Lijfs Daganna. Set þier nu alvarlega fyrir Sinni, ad ef Diofullinn, Heimurinn, edur þitt eigid Holld og Blood vilia koma þier til ad syndga, ad þu þa aptur a moot mis-ist, ad Ovidurkvæmilegt er þad fyrir þig, ad færa þig aptur i Flijkur Anstyggilegustu Synda, wr hverium þu vardst ecki færd, nema fyrir Dauda Guds Sonar, og fra þier ad fleygia þvi fagra Riettlætis Klædi,

hvørt þier var ecki gefid, nema fyrir hanns eiginn Upprisu. Siaa þa þar fyrir til, Saala miin, ad þu þenan Dag fra Morgninum byrier i Krapti JEsu Christi Upprisu, og set þier nu alvarlega fyrir, ad riisa upp af Svefni og Dauda Syndanna, i hvøríum þu hefur allt hier til svo Athugalaus sofid, eda maaske daud legid. Virdtu nu framar fyrir þier, hvilijk Gledi og Gedþeckni þeim almaattuga Gudi muni verid hafa aa siinum Elskulegum Syni, þa hann, ad sigrudum Diofli, Synd og Dauda, reis upp wr sinni Grøf. Eflaust mun Drottinn og so yfir ockur glediast, Saala miin, ef vid viljum nu med hønum, upp wr ockar Synda Grøf riisa, fyrir sanna Jdran og Lifnadarins Betran i riettri Trw.

Þa JEsus allra fyrst byriadi sitt Predikunar Embætti, og skiirdist i Jordan, þa kalladi strax Gud Fadir af Himnum ofan yfir hann, og sagdist hafa aa hønum Velþocknan. Ecki er þar ad efast um, ad Drottinn hefur Velþocknan aa þeim øllum sem

Synd=

Syndanna ydrast, og nya Hlijdni stunda, enn þo þad sie ecki neina, so sem fyrst, liiti Uppbyrian i þessum Heimi, nær hun ad eins skedur i Trwnni a JEsum Christum.

Þar fyrir mijn Saal, rijsum upp med ockar JEsu, rijsum upp fra illu Lijferni, giorum Jdran, og lattum af ad syndga, eptir frekasta Megni. JEsus gladdi ockur med sinni Upprisu, gledium vid hann og aptur med ockar Upprisu.

Englar Guds bodudu þau Gledi Tijdindinn JEsu Lærisveinum, ad Herrann væri upprisinn. Gud giæfi vær Meñirnir sem JEsu Lærisveinar viliim vera og heita, mættum so fyrir Naad Heilags Anda, upprijsa af Syndunum, ad Englar Guds mættu med Hiartans Gledi hvor odrum þar af segia.

Ja mijn Saal, rijsum ecki alleinasta upp i JEsu Riettlæti, hvert vier odlunst fyrir sanna Trw a hanns Nafn, helldur gaungum og i hanns Riettlæti hiedann af, i sonum Trwarinnar Avoxtum; Sie ecki alleina-

sta

sta ockar Umþeinking þessi, og Morgun Stundar Jdia, helldur miklu framar alls Dagsins Astundan. Verum ecki ad eins þessa Panka hulda i Briostinu fyrir Augunum, helldur wtmaalum og audsynum þa i Verkunum, og þessa Dags Umgeingni, bædi fyrir Gudi og Naunganum, hellst i rækilegri Heyrn Guds Orda, i almennilegri Bæn og Packargiord og odrum Christilegum Verkum. Laatum ockur nu eptir fremsta Megni gefa Gudi þennañ stunda Partinn Vikunnar til Piooonustu, hönum til Lofs og Dyrdar, þar hann hina sex gefur oss til Piooonustu vors Lykama.

Minn Herra JEsu, kom nu til mijn, og reis mig upp af Dauda og Svefni minna Synda, rettu ad mier þijna Hond, og stid mig a Fætur, þvi eg er aumþijn bædi Maatt laus og Magnlaus.

O! þu HErra og Eingill þess mykla Raads, taktu med þijnum Almættis Krapti þann Þwnga Tregleikans, Vanmaattarins og Vanskilningsins Stein fra mijnu

nu Hiarta. Leid þu mig a þessum Degi og ætijd, fyrir þinn heilaga Anda, a soñum Gudrækninnar og Riettlætisins Vegi, uñ þu mier, minn HErra JEsu, ad uppriisa hier i Heimi til Naadarinnar Hlutdeildar, so eg megi i ødrum Heimi uppriisa til Dijrdarinnar Arfleyfdar, fyrir Sakir þijns heilaga Nafns, Amen.

# Kvølld Þenking a Suñudagiñ.

HAld er merkileg Historia, sem Johañ es Evangeliste framsetur, i Tuttugasta Capitula þar hann segir: Ad a Kvølldi þessa sama Drottdags, sem Herrañ reis upp fraa Daudanum, hafi hañ til Lærisveinañá komid, hvørier vegna Hrædslu fyrir Gydingum, høfdu Hrosid ad sier læst, og þa hañ var iñkomiñ, stand andi i Midid hiaa þeim, Oskadi hañ þeim Fridar, eñ þeir urdu fyrst hr=

addir, allt þar til þeir skodudu hañs Hendur og Fætur, hvoria hañ framband siaalfur, þeim til Syn-is, þa urdu þeir gladir. St. Lucas segir, ad þeir hafe vered ad tala uñ HErrañ, þa hañ kom til þeirra.

SAla miin, ædur enn vid leggium ockur til Svefns, þa viljum vid med Guds Hiælp, huxa hier nock ud framar eptir.

Fyrst skulum vid nu hugleida, ad Jesus kom ecki til Phariseanna, Kiennimanna Hofdingianna, nie þeirra Romversku St-riids-Manna, sem annadhvørt eckert eda illa uñ hann tøludu. Miin Saal, Gud lat tiockur ecki sofna nie vakna i þeirra Selsk-ap, Gud forbioodi ockur ad trwa Nætur-Myrkrunum so uñ ockur, ad vid høfum ecki HErrann JEsum til ockar innseingid, og hanns Fridarbodunar notid, sem hefur Myrkranna Hofdingia sigrad, hvør eirn, em einginn annar gietur og maa sañañ Fe-

id og Roosemi giefa, bædi i Vøku og Svefni. J ødru lagi merkium, ad HErrann JEsus kom inn til sinna Læriſveina, sem voru fyrst hrædder vid Gydingana, hveria þeir hugdu wti ad læsa.

J annann Maata voru þeir hryggver, þvi þeir þooktust mist hafa sinn elskulegasta Herra, fraa sinni Nalægd og Umgeingni.

J þridia Maata voru þeir eñ Vantrwader, og villdu ecki trwa, ad JEsus være upprisinn, þar þeir høfdu þo aadur fyrri af JEsu heyrt, ad a þridia Degi mundi hañ upp aptur rijsa; og þar ad auki høfdu þeir optlega þann allann Dag Bodskap feingid, ad JEsus være eflaust af Dauda upprisinn, hvad þeim kunngiørdi bædi Maria Magdalena, og Konurnar sem Christum fundu a Veginum, og Engilsins Rædu heyrt høfdu, svo og lijka þeir tveir sem til Emaus gengu, og þa voru nijkomnir heim aptur wr þeirri Ferd.

Merk þetta Saala mijn, og fær þier slijkt gudrækilega i Nyt. Fyrst svo sem þeir voru

ru Herrans Christi Lærisveinar; Svo er-
tu og fyrir hanns Naad, JEsu Lærisveirn.
Petrum, Jacobum og Johannem kalladi
hann til ad vera sijna Lærisveina, vid Vat-
nid i Galilæa, enn þig. hefur hann þar til
kallad vid Vatnid Skijrnarinnar, edur i
Skijrninni. Þeir voru hryggver þvi þeir
voru sviptir sijns elskulegasta Meystara og
Herra sijnilegri Nærveru, fra hverium þe
ir og flydu i Grasgardinum. Myklu hr-
yggvari mattu vera, med þvi þu hefur, æ
þvi midur (i Dag so sem optar) snwid fra
þijnum DRottni og elskulegasta HErra,
med þijnum Syndum.

Gydingar tooku JEsum fra Lærisvein
unum, mooti þeirra Gyrnd og Vilia, enn
þu hefur JEsu fra þier vijsad, eptir Gyr-
nd og Vilia þijns eiginn Holldś, þar þu hef
ur þvi hlijdugri verid ad elska Syndina,
enn þijnum Gudi, ad elska Riettlætid.

Lærisveinarnir JEsu, hofdu Lœs og
Hurd ad læsa og lykia uti fra sier sijna O-
vini Gydingana. Enn med hveriu kanntu

og villtu þijna Ovini wtilykia, sem eru, þijn eiginn Samvitska, hvoria þu hefur fleckad, Guds Reidi hvoria þu hefr forskulldad, þijnar Syndir sem þu hefur drygt, og Dioful inn sem um þig situr, ad giora þier Skada.

Þeir voru breyskir og Twarveikir, þo þeir heyrdu talad margt um Christi Uppristu. O! mijn Saal, er ecki hid sama fyrir þier? Hvorsu margt hefur þu maatt heyra, lesa og hugsa um þinn HErra JEsum, og þijn Saalar Efni i Dag? Enn Gud naadi, hvar er Avoxturinn? Athuga þu þar fyrir Saala mijn, hvad margt þu hefur nu af riettri og gudrækilegri Helgidags Jdiu forsoomad, og hvad margt þu hefur Oheilagt, heymskulegt, hiegoomlegt, og holldlegt bædi giort og stundad, hugsad og talad. Komum nu þar fyrir Saal mijn, og giefum ock ur wr Selskap Phariseanna, sem eckert hugsudu nie toludu um JEsum, hvert hann væri upprisinn edur ei, giefum ockur i Hoop HErrans Lærisveina.

Treystum vid ecki Myrkranna Hættu,

um̃ ockur sofandi, nema vid hofum Liooss-ins HErrann JEsum yfir ockur vakandi. Vid komum til JEsum i Vatni, eda fyrir Vatn Skijrnarinnar, komum nu aptur til hanns i Vatni ockar Idrunar Tara. Verum hrygg, þvi vid hofum þvi gooda tapad, enn illu eptirfilgt, vid gietum ecki ock-ar Ovini wtilæst, bidium nu þar fyrir Her-rann JEsum, ad læsa þa og wtibyrgia fra ockur. Preisum nu med Hendi riettrar Trwar, a Pijslar Saarum ockar Endur-laasnara med hvorium hann hefur allar ockar Syndir, sem vid drygt hofum full-komlega afmaad, bætt og borgad. Ecki kuñi Laas nie Hurd, JEsum fra sijnum Læri-sveinum wti ad loka: Svo kunna og ecki Syndirnar hann fra ockur wti ad læsa nie lykia þa vid hann af Hiarta gyrnunst. Þvi innilegar sem vid hugsum um̃ JEsu Forþienustu, og hanns Myskun, þvi glad-ari verdum vid, þvi værara sofum vid, þvi ohræddari meigum vid vera, fyrir Diofli, Synd, Samvitsku, Kvijda, Guds Reidi,

og

og ollu illu.

O! þu elskulegasti JEsu, mikill er minn Vanmattur og Veikleiki minnar Trwar, hvør mig angrar og ástrijdir, enn meiri er þiñ Kraptur sem mig styrkir og forsvarar. Mykid hef eg særtmijna Saal med Synd unum; enn myklu framar kantu hana ad græda, med þijnum Pijslar Saarum. Eg hefi fraa þier flwid og þig yfirgiefid med For soomun goodrar og gudrækilegrar Idkun ar i Dag; Naulægstu mig nu aptur i þiñi Mylkunsemi, og wtelyk fraa mier alla mijna Ovini, synilega og Osynilega a þessari Noottu, laattu þijnar blessadar Beniar og Undir vera Saalu minni fyrir Sioonum a þessari Noottu, henni til Gledi og Fagn adar. Laattu mig eignast þinn Frid, unn þu mier i þijnum Fridi ad sofa, i þijnum Fridi ad deya, i þijnum Fridi upp ad rijsa og i þijnum Fridi eilijflega ad glediast, þu sem lifir og rijkir med Fodurnum og heilog um Anda, lofadur, vegsamadur og blessad ar ad eilijfu, Amen.

Morg=

# Morgun Þenking á Mánadag.

J Genesis Bokar 1. Capitula stendr skrifad, Ad i Upphafi hafi Gud skapad Himin og Jørd, asamt øllum Skiepnum, a sex Døgum, hverier sex Dagar ad sumlyktast meiga vid ein Dags Morgun, af þeim øllum Tijma, er Verølldin stendur.

Lattu nu, Sæl mijn, þenann uppruña Dags Morgun vera þier Ordsok, hier framar um ad þeinkia. Athuga nu þar fyrer: Fyrst þañ fagra Morgunroda, og þad skiært skynande Lioos Soolareñar, nu Uppreñande, hvad ad er eitt hid skiærasta og fegursta DRottens Handaverk, sem daudlegum Moñum hier i Heime, fyrir Siooner ber, og hvad skiær, Dijrdarlegur og Veglegur mun vera sialfur Skaparenn, þar Skiepnan er

so

so skiær og fögur? Siaa hvorsu Dagurenn veit sijna somu Att, wr hvorre hann ad Morgne uppreñur, og hvar hann ad Kvolld be nidurgeingur, so og eirnenn hefur og hefilldur Soolenn sinn sama Gang, Daglega og Arlega.

O! hvorsu vijs mun saa HErrañ vera, sem þui hefur soo tilskickad? Og hvad stödug er su Stioornan, sem ecke lætur þvilijka Skickan nockru sinne skeika, og hvorsu mikil ed er Almætte þess HErra, sem Himne og Jordu vid Magt helldur? Siaadu og eirnenn, hvorneñ allar Skiepnur leita sijns Fæ dis, Fuglarner um̃ Lopted, Dyreñ uñ Jordena og Fiskarner i Sionum. O! hvorsu Rijkur, Goodgiarn og Orlaatur er sa HErrann, sem aan allra Eptertalna og Bitalings, helldur þær allar so Rijkuglega og Goodviliuglega Kost frij? Minn Saal, fyrir þessa sama DRottens Augsyn ertu nu af f ijnum Svefne voknud, under hañs Verndan hefur þu Roseme, Hvijld og vært ann Svefn hast a þessare Noottu. Svo

seni

sem allar Skiepnur þiggia hanns Good-villd, so þiggur þu allt hvad þig gott hendt hefur af hanns Giædsku og Myskun, allar Skiepnur priisa sinn Skapara, hver ept er sinne Tegund og Nattúru. O! þu miin Saal, sem miklu fleyra, ædra og meyra þiggur af DRottne, helldur enn nockur ońur skopud Skiepna, Gud láte þig ecke hen da, ad þu siert hin lakasta, eda verder ein epter af øllum hanns Skiepnum, med þij-na Losgiord og Packlæte, epter þvi sem hei lagur Ande virdest nú ad giefa þier Raad til.

Rænulijtell maa saa Pioon vera sem ecke virder sinn HErra þess, ad biooda honum goodań Dag ad Morgne Dagsins. Vertu ecke Saal miin so Rænulaus, ad þu ecke veiter DRottne þijnum þaa Virding, sem þu villt ad þiiner Pioonar veiti þier, biood þar fyrir Gude þijnum goodann Dag, med þinne Morgun Bæn, Jaa, taktu und-er vid þinn Gud, sem nu verdur fyrre til ei ad eins ad biooda, helldur giefa þier eirn

good

goodann Dag nu sem optar, og vertu honum þacklaat.

J odru Lage hugsa þu nu þar umm, ad allar Skiepnur sem þu sier nu i Dag, eda hefur med ad fara og hondla, þier og þijnum til Næringar og Biargrædis, bæde Lifande og Daudar; Utann og Jnnann Hwsa eru af Gude skapadar, og þier i Hendur feingnar og skamtadar, mundu þig þar fyrir, ad vanbrwka þær ecke nie misbrwka þeirra Skapara og þiinum Herra til Stygdar, sem þier þær liede og lanade, Formæltu ecke Skiepnum Drottens nockru sinne, þo þær sieu þier ecke i Dag sem Hlijdugastar, þeinktu helldur, hvorsu þu ert sialf bæg og þverbrotenn þiinum Gude, og formæler hann þier þo ecki. Laat þier nægia daglega med þad sem Drottenu hefur þier skamtad, girnstu ecki þar vid ad auka med Rangindum, forspilltu þvi ecki helldur med Otilbærilegri Eydslu og Utsooan, hondla þu Ærlega, Rielega og Skynsamlega med Skiepnur DRottens,

ens, sem hann hefur þier i Hendur feinged, svo sem þinn skamtadann Verd, stær þig ecki yfir þeim sem minna hafa, og ofunda ei þann sem meira hefur, veit Lijkamanum sijna Þørf, epter þvi sem Gud þier leifer, og gialld Christo siinar Skylldur a hanns fatækum Limum, epter þvi sem DRottenn giefur þier Efne, neittu Christelega Drottens Skiepna, vidurkienndu lijtelatlega þær þier Overdugum veittar, þacka þu Gude Hiartanlega fyrer þær, bid þu Gud aud miwklega þier þær ad blessa.

Lof sie þier DRottenn minn fyrer Vernd og Vardveitslu, Værd og Rooseme, og fyrir allar Skiepnur, sem þu hefur mier Overdugum til Þarfar skapad, og Upphelldis giefed. Stioorna þu mier Nadarsamlega a þessum Deige, og allre minne Høndlan og Medferd a øllum þijnum Skiepnum, sem under miinu Vallde eru, og blessa þu mier þær allar, þier til Lofs og Dirdar, enn mier til Gagns og Nytsemdar, Amen.

Kvølld

# Kvolld Þenking a Manudagen.

I Genesis Book. 3. Capitula verdur lesid: Ad a Kvollde, þaa Daguriñ took ad koolna, hafe Gud DRotteñ kallad Adam fyrer sig, og Reikningskap vid hañ hallded, uñ sitt fyrsta Synda Brot, þa hañ at af þvi Trie, sem DRotteñ hafde honum bañad.

MJN Saal, maklegt være þo DRotteñ vid ockur hiellde nu a þessu Kvollde, hiñ straangasta Reikningskap, uñ þad sem hañ hefur feinged ockur i Hendur, ad hondla med i Dag af sijnum Skiepnum. O! hvorsu hofum vid med þad fared? Aũad hvort Oriettelega, edur og so alldeilis illa. Hvorsu saa Packar Ord hefur DROTTeñ þeiged af ockar Muñe? Jaa, hvorsu Faavisleg hefur vered oll ockar Hondlañ i Dag? Margt hofum

hofum vid giort þad Gud hefur bannad, sautt þad sem Gud hefur bodeð. Adam Forskulldade ad wtrekast wr Paradijs med einu Brote, enn med hvørsu mørgum Brotum og Syndum hofum vid nu Saala miin Forskulldad frai Gude og eilijfre Saaluhiaalp ad wtrekast? Adam braut mikeð, þar hann mishøndlade med eitt Eple, hvad mikiu meir hofum vid þaa syndgad med ockar Misgiørdum, vid so margar goodar Guds Skiepnur i Dag? Sia þu, miin Saal, Tijmanum hofum vid forspillt aan Bænar og Þackłætis, med Hyrduleise og Giaalijfe, Heimsku og Hiegoma, Heilsunne Onytsamlega fortært, og til Ymislegra Synda misbrwkad, og hvad tek eg til ad telia þad upp, sem þo verdur ecke taled? Þvi hvør kann ad skinia hvad opt hann fellur? Og ef sa Riettlaate fellur Siøsinum aa Deige, hvørsu opt mun eg þa Ranglaatur falled hafa i Dag? Jaa, miin Saal, hvørsu Oþarflega, Oskynsamlega, Oriettvijslega, og Oþacklaatlega hofum vid

þessa

þessa gooda Dags Tijma foreydt? Og so sem vid i Morgun glodduſtum vid, ad ſiaa þad fagra uppreñanda Dags Lioos, so meigum vid nu Hryggiaſt vid; ad ſiaa þad undergaanga aptur og Myrkred, ſem Daudann bodar og Fyrermyndar, yfirkoma. Eñ miin Saal, hvad ſkulum vid til giora? So lijted ſem Adam ſtodade ad fela ſig milli Triaaña, fyrir Augſijn DRottens, ſo lijted ſtodar ockur ad dyliaſt fyrir Gude, þvi ad Vei þeim ſem dulder vilia vera fyrir DRottne, ſeiger Ritningeñ. So lijted Skiool ſem Adam vard ad ſiinum Fykiublodum, ſvo lijted og ollu minna gyllder ad ſkyla ſier med ſijnu eigenn Riettlæte edur Meinleyſe, enn allra ſijſt gyllder ad aſſaka ſig med Saakleyſe, Mañlegum Dæmum, Hollds Veikleika, edur hvoriu odru ſlijku. Komum þvi aan Dvalar miin Saal, komum viliug og Oneydd fram fyrer DRottenn nu aa medann hañ fyrir ſinn Anda hid iñra, med Gudrækelegum Hugreñingum, edur fyrer Orded hid ytra, med hoogværum Amiñ-

ingum

ingum, i Naadeñe at ockur kallar, so vid ecke sijdar meir naudug koma hliootum þaa hañ i Reideñe skipar þa Ogudlegu fram ad draga fyrir Dóómenn. Med kennum nu, grææutum og kleogum ockar Synder, illa Medferd, Oþackłæte og Avirdingar þessa Dags, fyrir þeim Myskunsama Gude, og bidium lijtelæætlega Fridar og Fyrirgiefningar i Trauste og Nafne Medalgaangarans JEsu Christi, þvi treistande og trwande af Hiarta, ad DRottenn mune af Naadeñe vid ockur hondla, epter siñe Myskunseme, oungvu sijdur enn hañ giørde vid Adam, hvorium hañ lofade, ad Kvinnuñar Sæde skyllde i sundur mola Hoggorms sins Hofud, og gaf honum og hañs Kviñu Skiñkyrtla, þar bæde voru nakenn. Þessa sama Kviñuñar Sædis JEsu vors Endrlausnara (sem hañ hefur med allre siñe Forþienustu giefed ockur) mun hann laata ockur niota, og Diofulsins Magt svo burt taka, ad hann mun oungvu illu fram vid ockur koma; Jaa, mun klæda ockur med

tvefin

veinn Kyrtlum sem er Riettlæteisins Kyrt i sijns Sonar, og Hialpræd:s Klædi H. Anda Kraptar, og i þessari Trw og Von, vilium vid i Nafni og Trausti þess Heilaga og blessada Kvinnunar Sædis, JEsu Christi vors Lausnara, Augna Hvarmana apturleggia, og Lijkamanum Hvijld gefa a þessari Noottu.

Lof sie þier DRottinn minn, fyrir allar þijnar Skepnur, sem þu mier til Gagns og Þarfar gefid hefur; Fyrirgef mier þijne Fodurleg Myskun, allar mijnar Syndir og Sakir, og skijli mier þiin Giædska, fyrir ollum Diofulsins Freistingum, þessa Nott og alla Tiima, Amen.

# Morgun Peinking a Pridiudagin.

MAtth. 20. Capitula, Framsetur Herrann vor eina Eptirlijking, Um Hwss-Fodurin sem wt gieck sneinna Morguns, ad leigia

## Verkamenn i sijñ Vijngard.

Minnstu hier uppaa, Saala mijn, aa þessum Dags Morgni, og merk, ad Eflaust er nu sa Himneski Hws-Fadirinn Almaattugur Gud, wtgeinginn, ad leita sier Verkmanna, sem honum Trwlega i sijnu Embætti þioni, Jaa, hann skyniſt ad þeim sem hann og snemma Morguns i Skijrninni kallad hefur, og Samning allareidu vid hann giordt, i hvorra Tolu þu ert mijn Saal, fyrir Naad Drottinns.

Virdtu nu fyrir þier, ad ecki ertu kollud til Idiuleysis, eda Omennsku i Drottinns Vijngard, rijsum þar fyrir upp, og mætum nu sem skiootast ockar Herra, verum til Þioonustu, Jaa, gaungum fwslega eptir hñs Bodi. Giorum i Dag ockar Verk og Vinnu, sem vid erum allareidu tilskipud og kollud i JEsu Christo. Lofum nu Drottinn og þockum honum fyrir sijna Vardveitslu. Byrium þennañ Dag med Hiartanlegri Bæn og Christilegum Asetninge goodra

goodra Verka, stundum ockar Vinnulag og Embættis Utrietting i Otta Drottinns med Trw og Dygd, sie þad nu ockar hinn alvarlegasti Asetningur ad giora, tala, at-forma, hugsa og framkvæma það eina, leynt og Opinnberlega, sem annadhvort er Gudi til Lofs og Naaunganum til Gagns, eda og svo ad minnsta Kosti Gudi sem sijst til Styggdar, og Naaunganum sijst til Hneixl-unar, og þo ad vid i ockar Vinnulagi, Stiett og Kallan, af adskilianlegum Bægiend-um, Krossi og Motgaangi, eda hveriu helst motstædilegu Tilfelli, meigum i Dag lyast, sveitast eda þreytast, þa huggum ockur vid þann Samning, sem Drottinn i Skijrninni vid ockur giordi, og Daglega i sijnu Heil. Ordi vid ockur endurnijar, sem er: ad hañ vilie ætijd i Naad, enn ecki eptir straangasta Rietti vid ockur hondla, og ollum sijnum Vijngards Erfidismonnum, vill hañ sialfr naalægur vera, og þa sem i Erfidi og Þwnga þiaast og þreytast, lofar hann ad endur-næra, þar med kortar hann ecki Launiñ ad

Kvølldi, þvi fullann Pening, fullkominnar Sælu, gefur hañ sijnum trwum Pioonum og Verkamonnum um̃ si'dir, og þad af Naad, enn ecki af Forþienustu vorri. Vid skulum ecki helldur, Saal mijn, srvænta ockur goodra Dags Launa, þo Vinnann ockar sie og sijnist lok og lijtil, Embættid ock ar lijtilmootlegt eda Kraptarnir ockar vzik- ir. Hugsum ad eins um̃ þad, sem Guds Ord segir: Ecki heimtist meir af Verka Monnunum, enn þad þeir sinnist trwir. Vinnum þvi i Trausti Drottinns, trwlega vegna Guds, Sidsamlega vegna Guds Engla, forsiaalega og ærlega vegna Mannanna, skynsamlega og vareigdarlega vegna Diosflanna, rietttvijslega i Kiærleika til Guds og Naungans vegna sialfrg vor.

O minn Drottinn! Þu sem mig hefur kallad i þinn Vijngard, og enn nu aa þessum Morgni kallar, so eg i mijnu Kalli og Embætti, þiooni eptir þvi sem þu mig hartt eda laagt sett hefur; Gef þu mier þijna Naad, so eg trwlega, þarflega og nytsamle-

ga, þier til Lofs, enn mijnum Naaunga til Nytsemdar og Gagns, giori, tali, aaformi og framkvæmi allt þad eg hlijt ad giora, tala, hugsa og wtrietta i minni Kallan, og gef mier Styrk, Trw og Þolinmædi ad liida og umbera hvorn Mootlætis Kross, sem mier i Dag kann til ad falla, og blessa þu milldilega oll mijn Verk og allar mijnar Utriettingar, fyrir JEsum Christum, Am.

## Kvolld Penking a Pridiudagin.

Mattheus i 20. Cap. Greinir i Eptirlijkingunni um Vijnga=rds Mennina: Ad Hws=Fadirin hafe bodid sijnum Raads=Mani, ad kalla Verkamenena, og giallda þeim Dag=Launen.

Saala miin, so sem þessi Dagur er ad Kvoll di kominn, so kemur vissu lega Kvolld ockar Æfitiidar, a

hverin Drottinn JEsus, Doomari lifendra og daudra, mun ockur kalla, fraa þessari ockar Wijngards Vinnu. Laatum ockur nu þar fyrir, a Kvolldstundu þessare siaa ockur um, hvorninn vid hofum eptir Skylldu ockar Embættis unnid i hans Wijngard i Dag, og þar med hvad eptir er Ounnid, sem bæta maa um fyrir þvi, sem bædi hefur latlega og laklega unnid verid. Ad sonnu, miin Saal, noogu snemma kalladi Drottinn ockur i sinn Wijngard, þa vid vorum skijrd: Noogu snemma kalladi hann ockur i Morgun, fyrir innri Hræring Heilags Anda, soo noogann Tijma og Toomstund hofum vid haft, eitt gott Dags-Verk ad vinna. Enn miin Saal, hvad hefur skied? Dagurinn þessi er lidinn, aa Daginn Æfinnar ockar lijdur mieg hvad af odru, og alldrei veit nær enn Kvolldid kemur og sagt verdur: gior Reikningskap þinar Radsmensku.

Enn Verkinn ockar eru lok, lijtil eda einginn, og oll i sijnu eigin Gylldi Onijt, so vid meigum grætlega klaga og segia: Illa hefi

og lifad, og Oniitt Tijmann, þar ønur blijd' ug Guds Born, og trwir Verkmenn Drottinns hafa sveittst og unnid allar Toolf Stundir Dagsins, þar hofum vid varla eda ecki þinn Ellefta Part allra ockar Æfi-Stunda, nockud gott og nytsamlegt giordt og wtriett. Ja, vid hofum ei ad eins Idiulausyerid og Tijmann med eingri Vinnu Onijtt, helldur (æ þvi midur), Tiinanum med illum Verkum forspillt. Hvar munu ockar Laun verda þa Raadsmadurinn kemur? Sannarlega ill ein, ef eptir Verdugleikum er farid; vid hofum haft ockar Hlutskipti med Letingium og Illvirkium, þvi er Von ad Hlutskipti Launanna, verdi eptir Hlutskipti Verkanna. Enn minn Saal, eitt af ockar Dagsverkum er eñ eptir, sem Gud hefur þo skipad ockur ad giora, giætum vid giordt þad so honum lijki, þar mun hann gefa ockur allt þitt kvitt, sem honum hefur a ockur i Dag misslijkad, þetta Verkid heitir so; Offra þu DRottni Lofgiordinni, Item, Akalla þu hanni Neyd-

inni. Uppheffium nu þar fyrir Hiarta, Huga, Hendur Augu og Sinni til Drottinns, og þockum hanns Myſkunſemi fyrir ſijna Naad, Þolinmœdi, Verndan, Forſorgun, Fodurlega Hliifd og Bleſsan, ſem hann hefur tied og audſyndt ockur i Dag, bidium liitilatlega Fyrirgefningar allra ockar Synda Brota og Misgiorda, i Nafni JEſu Chriſti, treyſtum og trwum honum, ſo ſem Hiartanlegum Fodur, ad ecki muni hann eptir ſtrangaſta Rietti, helldur eptir miwkuſtu Myſkun vid ockur hondla. Þar ſem Verkinn ockar naa ecki til ad þloona fyrir ſettann Pening eilijfrar Dijrdar, þa tekur Forþienuſtann vors Herra JEſu vid, og undir hana ſkyt eg nu mijnu Maali, og bid þig liitilaatlega minn DRottinn, hondladu vid mig eptir Myſkun þiñi, enn ecki eptir Verdſkulldan minni. Laattu mig niota þijns elſkulegaſta Sonar Hlijdni og Forþienuſtu, enn ecki giallda miñar Ohlijdni og Jdiuleyſis. Vard veittu mig fraa Dioflinum, og ollu Illu, i

Noott og alla Tijma, og bleſſa þu myſkunſamlega, þier til Lofs, enn mier til Nota, og Naunganum til Gagns, allt þad ſem eg hefi unnid, alla mijna Æfi-Tijd, (þo lijtid ſie) i þijnum Vijngardi og lattu mig ecki hafa Hlutſkipti med Otrwum Þioonum, þa þu kallar mig wr þeſſari Viingards Vinnu, helldur gief þu mier eilijft Lijf fyrir JEſum Chriſtum, Amen.

# Morgun Þenking a Midvikudagiñ.

Hia Matth, 25. Cap'tula, verdur giettid, Ad þa JEſus eitt Siñ gieck ſnemma Morguns heim ad Jeruſalem, hafi hañ Matlyſtug ur verid og leitad Avaxtar a einu Fyktu-Trie, eñ ſem hañ fañ aungvañ, formælti hañ þvi, ſo þad viſnadi upp, allt ad Rootum.

Saala mijn, ſa ſami DRottinn, ſem þig hefr plantad i Alldingard ſinnar Chriſtni, og vokvad þig m;

sijnu H. Bloodi i Skijrnar Lauginni, hafi hefur vi'ist Eptirlaungan ad finna a þier gooda Averti. Vijst mun hann nu a þess um Degi, sem nu er alla reidu upprunninn yfir þig, koma og leita, edur ad minsta kosti skygnast hiaa þier, eptir goodum Averti, so sem hann og kiennir i Eptirlijkingunni hiaa Lucam, þar hann segir: Alldingards Herr ann hafi umkvartad, ad i heil þriu Ar hafi hann Avartar leitad a einu Fyku-Trie, og þo aungvann fundid, og skipad þvi ad hoggva þad burt.

Giætum nu þar fyrir vandlega ad mijn Saal, ad Drottinn finni þig ecki med ollu Avaxtarlaust Trie i Dag, hugsa þu ecki ad þinn Herra lati sier nægia med toom Blodinn, an Avarta, þo þau syniſt fogur, þad er: Ecki nægiſt noog ad þu kalliſt Christiann ad Nafninu einu, eda umgangiſt ad eins med Christnum Monnum, ad Siooninni og Selſkapnum, og siert þo sem visid Halm-Straa i Hveiti Hrwgum, sem um sijdir verdur wtsiktad og brendt. Siaadu þar

fyrir

fyrir ſvo til, ad þu fyrſt a þeſſum Dags Morgni vaknadur, koſtgiæfir þig ſo ad tilbwa og tilreida, ad þu hafir øll Efni til ad verda frioſſamt Trie i DRottins andleg um Vijngardi i Dag.

Fyrſt maattu vita, ad Tried ſem bera ſkal ſiñ Avoxt, þlijtur goodann Grundvøll ad hafa, ſvo þarf og þijn Trwa Grundvøll ſannrar Kynningar a Almaattugum Gudi, og þijnum Herra Jeſu Chriſto, og hañs Vilia ad hafa, ſo þu hann riettilega þeckir, eptir þvi ſem hann hefur ſig i Ordinu opiñberad, og þu vitir og þeckir þig ad vera af Gudi Fodur ſkapadann, af JEſu Chriſto endurleyſtann fra eilijfri Glotun, og af heilogum Anda helgadan, fyrir Guds Ord og Sacramentin i Chriſtninni, þar med ad Vilie Guds ſie þijn Helgun, þvi þu ert til Helgunar, enn ecki til Ohreinleiks kalladur, og til goodra Verka i JEſu Chriſto, af Gudi ſkapadur, og hvad anad Guds Ord þier umm þiin Saaluhiaalpar Efni undirviiſar.

Þar næſt hlijtur Tried i Grundvøllin-

um ad Rootfestast og nidursetiast, þvi þo þad liggi Rootlaust ofann a Jordunni, hv-ersu good sem hun er, þa er þad og heitir sw inn Fauskur, enn ecki Trie. Enn þvi fasta-ra og diwpara sem Tried med sijnum Root um er plantad i Jordina, þvi frioossamara er þad.

Eins skalltu vita þinni Trw er varid, þvi ein laus og Ogrundvollud Vitund af Gu-di, stodar ei nie hiaalpar, so sem Dioflanna Dæmi sijnir, hvorier af Gudi vita, eñ hafa þess eingin Not. Þar fyrir hlijtur þu Root þinnar Trwar ad Rootfesta og Gro-odursetia i Guds Ordi, og Fyrirheitum Je su Christi, so þu af þeim lærir Gud ad elska, honum i Nafni JEsu Christi til alls goods ad trwa og treysta Lijfs og Saalar vegna. Og so sem Rootiñ fyrir Plantan Triesins i goodri Jord dregur ad sier Vokvann, svo hann sijdann uppdragist i Greinirnar, brio otist wt og beri goodann Avoxt. J sama Maata, ef þu fyrir sanna Trw a JEsum Christum, eptir hanns Ordi, verdur hon-

um

um sialfum innplöntud, þa dregur þu ad þier Vokoa og Krapt hans Elsku, fyrir heilagann Anda, hvor siidann i öllum þijnum Verkum, Dagsins Idiu og Utriettingum, sijnir sig i Kiærleika vid Naungann, svo sem eirn goodur Avöxtur, Gudi þeckur og Mönnum kiær, og þo ad Kvistir og Hnwtar synist i bland med, af Mannlegum Brest og Ofullkomlegleika, þa maa DRottins Naad og Medalgaunga JEsu Christi so mikid, ad þess verdur ecki giætt af hanns straunga Riettlæti, þvi velldur hans mykla Mykun og Elska til þijn.

Giefum ockur nu þar fyrir Saala mijn, alvarlega i Trunni aa JEsum Christum til þess Asetnings, ad vinna trwlega og wtrietta christilega ockar Embættis Hondlan i Dag, bidiandi og treystandi af Hiarta, ad heilags Anda Kraptur muni reidubwin̄ vera, ockur ad styrkia i þvi hinu gooda, so sem friooſamt Himins Regn yfir plantad Trie. Holl dum ockur þad frekast mogulegt er, fyrir naaduga Hiaalp heilags Anda, fraa

Syndunum, Raanglæti, Leti, Jdiuleysi, Vielum og Undirferli, Lygi, Bakmælgi, Blooti, Formælingum, Ohreinferdugum Ordum og Verkum, Ofund, Agyrnd, Hatri og Reidi, og eirna mest fyrir holdlegu Athugaleysi, þad hugsandi ad ætijd er Von aa HErrann komi ad leita og heimta Avoxtinn af siinu Trie, uppaa hvort hañ so mykla kostad hefur, sem er siinu eigin Blodi: Liisid er fallvallt, Daudinn viis, enn Stundinn er Ovijs. Kieppustum þvi nu vid i Nafni DROttins, ad vera ecki fwinn Fausskur, enn siidur eytrad Skada Trie i HErrans Alldingardi, swonum Fausk verd ur i Elld kastad, hvad mun þa af þvi eytrada Trienu verda? Oxinn er til reidu vid þess Avaxtarlausa Triesins Root sett, svo þad upphoggviist; Gud laate ockur ecki fyrir þeirri Reidi-Oxi verda nu i Dag.

O! þu giædskurijkasti JEsu, miñ Endurlausnari, vokva þu mig, þitt visna og þurra Trie, med Krapti þijns heilaga Anda, so eg i minni Stiett og Kallan, færi þier

þæga

Þæga og þecka, Ja, þacknæma Averti riett rar lifandi Trwar, i ollu þvi eg giori, hugsa og tala a þessum Degi, eñ vardveittu mig fra ollum illum Avoxtum, þennann Dag og alla Tijma, og formæltu mier ecki i þiñi Reidi, þo eg sie Avaxtarlijtill, helldur miskuna mier, fyrir þijns hellaga Nafns Sakir, Amen.

# Kvolld þenking a Midvikudagiñ.

Sancti Marcus i 14. Capitula gieturum, Ad þa JEsus uñi Kvolldid settist til Bords med Postulunum, og hañ iñsetti Kvolldmaltijdar Sacramentid, hafi hañ medal añars sagt, ad hann villde ecki framveigis drecka af Vijnvidar Averti, þar til hañ drycki þad nijtt med þeim i Guds Rijki; hvar af audrádid er, ad Vijnvidar Avoxt hafa þeir fyrir Herr-

ân a Bord borid.

SAla mijn, Kvølld þessa Dags er nu komid, hvad skylldir þu nu helld ur gyrnast, enn þad, ad JEsus, Lijfsins og Liosssens HErra og DRottiñ, villdi nu verda Bordsitiandi Gestur þijns Hiarta, svo hann þar inni Sess og Sæti hefdi? Hvar med og þu med þinni Kvølldbænar Andvarpan, villt honum til þijn innbiooda. Enn hvar er nu saa sæti Vijnvidar Avøxturiñ þiñar Trwar, edur Kiærleikans Verka, og christelegs Framferdis, sem þu villt þiinum HErra, Brood ur og Brwdguma, þeim eilijfa Guds Syne, nu frambera og biooda, hvorium þu hefur nu i Dag ætt ad, iñsafna i þitt Hiartans og Samvitku Hws, med hvørium þu ætter og ad tilreida og prijda þijns Hiarta Herberge? Atter þu ecke i Dag ad vera eitt lifande og friossamt Trie, med sætum Avøxtum? Enn Gud næde, annad hvørt er þad ad þeir hafa ecki synt sig i þvi ad spretta, eda þeir eru hvørge nærre vaxn ir

er, og eru þvi Oduganleger, swrer og beisk-er, og ecke til þess Natturlega Sætleiks komner, eda þeir eru af adskilianlegu Rike og Dupte Syndaña, Hræsneñar og Veik leikans saurgader, og þvi med ongvu moote þvilijkum HErra sijnande, enn sijdur bio-odande.

Mijn Sæl, Ransaka nu siaalf. Trw enn ockar a Gud, hvad veik og dopur hef-ur hun vered i Dag? Poleñmædenn lijtel, Verkenn lok, og øll full med Hræsne, Bre-ste og Synder, og allar ockar Riettlætingar andstyggelegar fyrir Gude, eins og saurugt Klæde Bloodsiukrar Kvinu; Hvad munu þa vera siaalfar Ranglætingarnar? Ma-rgt gott er Ogiort sem gioraft atte, eñ ma-rgt illt giort, sem ecke gioraft skyllde, so allt er Onytt og Oduganlegt, þad vier giort hufad og talad høfum. Og ef þeir eiga ad medkieña sig onyta Þioona, sem giort hafa sijns HErra Skipan; hvad skulu þeir þaa heita, sem ecki ad eins hafa forsoomad Herr ans Befalning, helldur og so þar þvert a moote

mööte giort? Enn hvad skulum vid seigia mijn Saal? Skulum vid so leggia ockur til Svefns, og trwa Næturmyrkrunum um ockur ad vid hofum ecke HErrann ockar JEsum inn i ockar Hiartans Hws feinged? Pad laate Gud ecki skie. Eg stend og klappa uppa Dyrnar, seiger Lausnarenn sialfur, ef nockur vill upp fyrer mier laata, Þaa vil eg inganga, og Kvolld-Verd med honum hallda. Laatum Þvi upp fyrir honum sem skiootast mijn Saal, Þo efnaliited sie fyrir ockur, Þaa er hann hoogvær, og af Hiarta Lijtelaatur. Hann Þeide Stycks af steiktum Fiske, og lijtenn Hunangs Seim af Læresveinunum. Vijst mun hann og Þad Þyggia, sem vid til hofum, Þaa vid Þad riettelega frambioodum. Setium fram fyrer hann Þaa Avexte Hykiutriesins, sem hann vill Þyggia og hafa, sem er eitt audmiukt lijtelaatt og sundurknosad Jdrande Hiarta, og bidium Fyrirgiefningar allra ockar Afbrota, Misgiorda og Synda, setium og fyrir hann sætann Fykiutries Avoxt

Pack-

Packlætesins, og prijsum Myskunseme Fodursins, sem ockur hefur umlided, Medalgængu Sonarins, fyrer hvoria vid hofum umlidenn vered i Dag, svo su saarbeitta Reide Drottens hefur ecke þvilijkt Ofriosamt og þurt Trie, sem vid hofum vered, med ollu upphoggvid. Prijsum og þockum Hiæstod heilags Anda sem ecki hefur ockur med ollu Vokvalausann Fausk verda læted, fyrer hvorn vid nu kollum og seigium, Elskulege Fader, og JEsum Christum hiartalega nefnum i ockar Bænum. Losum og heidrum Gud Drotten sem ongvar skadlegar Lijfs nie Sælar Plægur liet yfir ockur falla æ þessum Deige. Setium og eirnenn fram sætann Vinvidar Avoxt, i Kiere Trwarennar, fyrir JEsum sem er hanns eigenn Bloods Heilagleike og Forþienusta, uppa hvoria vid ockur fyllelega reidum, til fullkomennar Forlijkunar fyrir Gude, þvi hanns Blood hreinsar ockur af allre Synd, og i soddann Trw og Trauste æ hanns eilijfa Giædsku Medal-

gongu

gongu og Forþienustu felum vid ockur hon um nu a Valld og Vernd a þessare tilkomande Noottu og ætijd. Þessa mijna nu framsetta Fijkiu og Viintries Avexte, þo af miñe Alfu til, veiker sieu, þigg þu nu med lijtelaatu Mykunar Hiarta, miñ elsku legaste HErra JEsu, og vertu so velkomenn Giestur mijns Hiarta og miñar Saal ar, og vardveit mig og allt mitt, under þiñe Blessan, þessa Noott og alla Tijma ad eilijfu, Amen.

# Morgun Panke a Fimtudageñ.

Sancte Lucas skrifar i 12. Capit. Ad miog sneiña hafe Foolked safnast ad JEsu, þa hañ var komiñ i Mustered i Jerusalem til ad kieña.

Virdtu nu fyrir þier Saal mijn a þessum Morgne, hvorsu ecke allein asta Jsraels Syner, a þessare

Tijd

Tijd sem JEsus hier umgieckst til hann styckiust ad heyra hanns Ord og ad þyggia hanns Goodgiørder, helldur og eirnenn hug saduun, hvorsu mikell Hoopur heilagra Eingla og Utvalldra Saalna a þessare Morgunstund (sem og ætijd) klædder hvijt um Skrwda med Palmavid i sijnum Hondum (seiger Johannes) standa framme fyrer Tignar-Stoole JEsu Christi, og losa hanns heilaga Nafn, og priisa hanns Velgiørder. Hugsadu til, ad þu att ad verda i þeirra Tolu umm sijder, og med þeirra fogrum Selskap ad losa þinn Lausnara ad eilijfu. Taktu þar fyrir i þiinu Hiarta med þeim under, med þinne Morgun Lofgiørd og Bæn.

Virdtu nu og eirnenn fyrir þier, hvorsu morg hiartnæm Andvarpan og Bæn Guds Barna umm allann Heimenn, mune nu hlioodma fyrer Eyrum DRottens, so sem vel samstillt Hliodfære Fagnadarins, hvoriar hvorskins Reikelse sætara fyrir honum Ilma. Og i annann Stad hvad mikel

mikel Myskunsemi og marghaattud Blessan ofañ stijgur til þijn, og so sem aastwdlegt Himen Regn, ofan dryppur fraa DRottne aptur, yfir þau bidiande Guds Born.
O! mijn Saal, vertu ecki ein epter ad bidia so þu verder ecki ein epter Blessun og Myskun ad þiggia, kaattu ecki DRottenn fakna þinar Morgun Bænar og Packargiordar, so þu ecke þurfer ad sakna DRottens þijns Blessunar og Hiaalpar. Laattu DRotteñ finna þitt Bænar Offur fyrir hann uppstutt af trwudu Hiarta, svo mutt hann og laata þig fiña ofann til þijn stigande Blessan og Myskun af Fodurlegu Elsku Hiarta. Bid þu i Nafne JEsu, so blessast þu i Nafne JEsu, þviad r honum eiga allar Piooder ad blessast. Vertu ecke sijdur enn Fuglarner, sem þu sier ad uppreñande Soolunne fagna, eda þeir aum legu Hrafns Ungar, sem HErran aakalla. Virdtu og fyrir þier hvorsu þad Einglar DRotteñs standa Reidubwner, ad hlijda sijns HErra Bode, nær sem hann vill þeim
befala

befala nockud ad wtriett ta, hvar fyrir þeir kallast Þioonustusamer Andar, og aller twer Verk. Men Drottens i þessum Heime, eru vafnader, og marger alla reidu wt geingner i sijns HErra Vijngard ad vinna, hvor epter sinne Kallan, hvar fyrir þeir og kallast Trwlynder Þioonar. Vertu og so til Reidu Saala miin i þinne Stiett og Kallan, ad frambiooda þijnum DRottne þijna trwa og skinsamlega Þioonustu, hafande þad atijd fyrir Sioonum, ad þu ert alldrei so stodd ein edur hiaa odrum i Lioose eda Myrkre, ad þu siert ei i Augsyn og openberum Sionum Guds og heilagra Eingla. Himenen er mitt Sæte, og Jordenn Skor minna Foota, seiger DRotten. Under þessu DRottens Haasæti og aa hanns Foot Skor lifer þu og ert fyrir hanns openberre Augsyn, Jaa, saa sem Augad skapade, skyllde han ecke siaa? Og saa sem Eyrad plantade skyllde han ecke heyra? seiger Guds Ande fyrir Munn Davids. Vanda þar fyrir Verk þijn fyrer DROTTens Augum

um og eirneñ þijn Ord fyrir hanns Eyrum, svo þu hañ ecke styggir nie til Reide reiter, under hvørium þo þijn Lijfs og Saalar Heill er kominn. Þu aatt ad heita Sampioon heilagra Eingla ; Gior þu þig þvi ei siaalf med vitanlegum Glæpum , Sampioon Dioflanna, þu bidur Guds Vilie skule verda so aa Jordu sem aa Himnum, brioot það ecke vijsvitande og þverwdarsamlega nidur i Verkunum i Dag Vinnande, sem þu i Morgun bidur med Ordun um uppvaknande.

O miñ HErra JEsu, aan þijn fæ eg einskis orkad kom þu nu mier til Hiaalpar ; Siaa þu minn DRotteñ, giarnann vil eg reidubweñ vera, ad þioona þier, og giora þinn Vilia, enn eg er bæde i Vilianum veik ur og i Verkunum þo enn veikare, og i allre goodre Utrietting Kraptalaus, enn gief þu bæde alvarlegañ Viliann og styrkvann Kraptenn, med þiinum heilaga Anda, so eg giøre hvad þier þocknast, enn varest allt hvad þier misþocknast. Blessa þu DRotteñ

otten øll mijn Verk og Vinnulag, og þo eg mig missiaai eda syndga meige, i hvørn Maata þad kann ad skie, þa bid eg þig Hiartanlega ad þu hrinder mier ecke under Skor þinna Foota, med þijnum Ovinum, helldur lijd þu mig a þinne Footskør, vid þijna Mijskunar Fætur, svo eg meige sediast aptur og glediast, af Molum þinnar Naadar, og verda hiaalplegur i JEsu Nafne, Amen.

# Kvølld Penking a Fimtudagin.

Sancte Johannes i 13 Capitula Framsetur eina merkelega Historiu, og seigir, Ad epter giørda Kvølldmaaltijd, hafe siaalfur JEsus Sonur Guds þveigid Fætur sinna Læresveina.

Sia þu hier Saala mijn, hvad furdanlega lijtelaatur þinn Herra er, ad hann þottest ei ofgoodur ad þvo Fætur sinna Læresveina, skoda nu þar

fyrer þijnar Fætur og giæt ad, þu hefur nu i Dag, eñ æframm geingeð æ Gøtu þinnar Lijfdags leiðar, so opt sem þu i Dag Syndgað hefur, og añat hvert giort það sem Gud hefur þier i sijnu Orde bañað, eða ecki lofað, ellegar og læted það Ogiort, sem hñ hefur þier skipað, so opt og mjøg hefur þu saurgað þijnar Fætur, og fleckað sialfa þig og Samvitskuna. Nu er það hvørutveggia, að ecke megnar þu þesse Saurendeñ af þier að þvo, með þijnum eigeñ Krapte, og ecke þo þu græter Bloodugum Tærum ecke heldur fær þu með Ohreinum Footum iñ að ganga i þa Himneska Jerusalem, nær þu hier við skilur, þvi Johañes seiger i sijnum Opiñberunum, að eckert saurugt meige þar iñ gaunga nie koma. Miñstu hvað JEsus sagde við Petrum, ef eg þvæ þig ei, þa hefur þu aungva Hlutdeilld medur mier.

Hier heyrer þu að JEsus vill sialfur þvo Fætur Petri: Kom þu nu þa i JEsu Nafne, og Nædar trauste, með eirnre hiart=

Hiartanlegri Jdrandi Bæn. Riett þu þiñ sauruga Foot ad JEsu, hafir þu i þiñi Stett og Kallan i Andlegri og Lijkamlegri Jdju edr Skylldu þijns Embættis, fyrir Gudi og Monnum, leynt eda opinberlega a Drottinns Footskør syndgad med Forsomun, Leti, Hyrduleysi edur Bænrækarleysi, Kærleiksleysi vid Naungann, edur i nockru, einu edur ødru, stooru eda smaau Gud styggt, Samvitskuna fleckad, og Naunganu hneixlad, þa legg ecki þijn Augu samann, fyrr enn þu hefur i einni sannydrandi Hiartans Bæn fyrir JEsum þinn Lausnara og Medalgangara, þetta framlagt, Fyrirgefningar bedid, og i sannri Trw, Saatt og Frid, fyrir hann, og af honum ødlast, og hugga þig vid þad, ad hann vill þig allann hreinsa, af øllum Syndum, med sijnu heilaga Bloodi, þvi þar til er hanns heilagasta Hiarta opnad, og þadann Blood og Vatn wtrunnid, ad þad skuli vera einn frijopinn Brunnur og Uppspretta til ad hreinsa Saal og Samvitsku ydrandi Manna af Daudleg-

um Syndum. Lijtelætlega kom þu Sæla mijn, fram fyrir þann lijtilæta JEsum, hann vill og mun þig hreinsa af allri Synd. Og i þeirri Trw, og Hiartans Von, til hanns Myskunar, gefum nu Svefn Augunum og Hvijld Lijkamanum. O þu allra lijtilætaſti JEſu, hreinſa mig vel af Synd minni, og þvo mig vel af Illgiørd minni, þviad æ mooti þier hef eg ſyndgad, enn eg trwi þo, ad þitt Blood hreinſi mig af allri Synd; Og i þeirri Trw, fel eg mig þinni Myſkunſemi nu og ad eilijfu, Amen.

## Morgun Penking æ Føſtudaginn.

Johannes Gudſpiallamadur i 18. Cap. ſegir Ad ſnemma Morguns hafi Herrann JEſus bundinn, afhendtur verid Pilato Landsdoomara.

Skilldugt være þad Sæla mijn, ad þu lieter þier þetta til Hugar koma, æ þeſſum Dags Morgne,

Og so þu nu til Packlætis uppvekr þig si ſ-
ſa, fyrir DRottinns Velgiörninga, þa
vyrdtu fyrir þier hversu Onaadarſama Kv
ala Noott, Herrann JEsus hafi ætt a
milli þeirra Ogudlegu Skalka, sem hann
spottudu, Hnefum sloou, og Hraakum sp-
yjttu, svo ad sa sem Roosemd hefur ollum
Skepnum gefid, skickad og skamtad, fieck ek
sialfur um eitt Augnablik, ena minnstu
Hvijld nie Roo. Hier a moot, hefur þu
nu undir Verndar Hendi Drottins hast,
bædi a þessari Noottu og Morgni, og marg
ri annari, sæta Værd, og Roosamlega Hv
ijld, og þar vtl hefur þu ecki notid sialfrar
þinnar, helldur Herranns JEsu Forþien-
ustu, og þeirrar Oværdar sem hann fyrir
þig leid, vertu honum þar fyrir þacklaat a
Hiarta, Saala miin, og minnst enn fram-
ar, ad med sijnum Bondum og Fiotrum, i
hvorium hann var Pilato ofurseldur, undir
rangann Dauda Doom, Riettlaatur og
Heilagur, snemma Morguns, hefur hann þig
frelsad og frijad, so þu skyldir ecki i Daud-

ans Fiotrum og Fordæmingar Bondum, undir riettann og forskulldadann Dauda-Doom, þeim riettferduga Doomara, sialfum JEsu ofurseliast a Dooms Degi ræng lat og syndug: Minnstu uppa, ad sialft JEsus villdi lata sig saklausañ til Dauda dæma, svo þu skylldir ei af honum sialfum Sokud, til eilijfs Dauda wrskurdast. Enn fyrir allt þetta heimtir hann ecki af þier, nema Packlætid, i riettri Trw framborid. Offra þu Drottni Lofgiordinni, segir David; Packa þu þar fyrir, Sæla mijn, Jesu þiinum Lausnara, fyrir siina elskulega Mynkun, og i hañs Nafni upphef þitt Hiarta til Guds Fodurs, og gior honum alla Tiima Packir fyrir JEsum Christum, byriandi þad nu a þessari Morgunstundu. Og til eins vissulegs Merkis, ad þitt Packlæti sie ecki toom Hræsni, þa gack nu til ad wtrietta þijn Verk i þinni Stiett og Kallan i Guds Otta og Hlijdni vid hañ, til Gagns sialfre þier, og Naunganum til Nota.

JEsus liet sig med Fiotrum binda, þiña vegna,

vegna, bind þu nu Vilia og Gyrndir Hollds
sins, med Bondum DRottins Orda, og
Fiotrum hreinnrar Elsku til Guds, og Ki-
ærleika til Naungans fra ollu Rangslæ-
ti, þad frekast þier fyrir Guds Naad mogu
legter. Betra er þier ad Drottinn finni
þig nu med JEsu Christo, svo sem bundinn
fra ollu illu, med Elsku Bondum til Guds
og Naungans, enn þu med Gydingum
siertlaus til illra Verka i Holldinu, enn ad
Saalunni fiotradur fra goodu, med Bon-
dum Heimsins og Holldsins Elsku. Af
Ast og Kiærleika til þijn, giordi JEsus og
taladi allt þad hann hefur hier i Heimi giort
og talad. Laat þar fyrir oll þijn Verk og
Ord i Dag framkoma af Elskuñi til hañs
aptur. Af Elskunni til þijn leid hañ fyrir
þig Pijnu og Dauda, svo lijd þu og af Elsk-
unni til hanns aptur, allt þad hann vill ad
þig leggia. Af Elsku og Kiærleika þienti hñ
þier, so þu yrdir eilijflega Hiaalplegur.

Þioona þu nu, og hiaalpa Naungan-
um, af Elsku til þijns Endurlausnara.

